# Løg-Þijnges Bookenn,

Iñehalldande þad er giørdest og fram̃foor fyrer Løg-Þingis-Rettenum.

Anno 1773.



Prentud ad HRAPPSEY, í því nýa Konúngl. privilegerada Bókþrykkerie 1773.



## Num. I.

Anno 1773. þañ 6. Júlii, var af Hr. Logmañe **Byrne Marcussyne** sett eitt almeñelegt Log-Þíng vid Oxará, og til Log-Þínges-Rettarens Þienustu efterskrifader Logrettu-Meñ nefnder, nefnel.

Ur Arnes Þínge:
Gunnar Hognason, Jón Brinjólfsson, Einar Haflidason, Gunnar Haflidason og Biarne Einarsson.

Ur Kialarnes Þínge:
Þorkell Þórdarson, Oddur Jónsson Hialtalín, Níels Jónsson Hialtalín, Þorkell Jónsson og Hallur Jónsson.

## Num. II.

Sama Dag kom fyrer Retteñ Philippus Ejólfsson frá Westmannaeyum og framlagde Þá Løgþínges-Rettar Stefnu, sem hañ til næstlideus Aars Løgþínges útteked hafde yfer Sýsslumañenum Sr. S i g u r d e  S i g u r d s s y n e í því so kallada Hreppstióra Bókar Mále, hvør Stefna hier þá fyrer Løgþínges-Rettenum var uppleseñ og uppá hana skrifud Løgdags Legging til þessa Ars Løgþínges, þar Sýsslumadur S i g u r d u r þá ecke fyrer Rettenum mætte edur nockur hañs vegna, efter sem næst fyrerfarande Ars Løgþínges Bókar Num. 15 og 26. med sier færa. Sýsslumadureñ S i g u r d u r er hier nálægur og frambýdur sig til Sakareñar ad svara, eñ Philippus begierer ad Sokeñ meige uppehalldast, þar til hañ kuñe fá Talsmañ hiá Hr. Stift-Amtmañenum, sem hañ lofar ad ske skule med þad allra fyrsta, hvad honum er af Rettenum efterláted ad ske skule iñañ næstkomande Fostudags.

## Num. III.

Þann 7. Júlii kom Hr. Løgmadurenn Sveinn Sølvason í Løgrettu og efterspurde hvørt nockrer Málspartar úr Nordann og Vestann Løgdæmenu være til Løgþingesens komner? og svorudu nálæger Løgrettumenn, ad þeir vissu eingva komna fyrer utann Sýsslumannenn Halldór Jacobson, og med því eingenn mætte, var frá Rettenum geinged.

## Num. IV.

Þann 8. Júlii var geinged í Løgþinges-Rettenn og mætte Sýsslumadurenn í Stranda-Sýsslu Haldór Jacobson, sem framlagde 2 Copier af Løgþinges-Rettar Stefnum útgefnum af Hr. Vice-Løgmanne Jóne Ólafssyne, tilbýdur Sýsslumadurenn sig nú ad svara til beggia Stefnanna og Sakanna, enn eingenn innfinnur sig af þeim sem honum hafa til ad tala fyrer þessum Rette. Sýsslumadurenn uppástendur ad þar sem Sakennar, fyrer vidkomenda udeblivelse, verde nú ecke strax fyrerteknar, so meige hans Contraparstum fyrerleggiast einn viß Dagur á Løgþingenu, uppá hvorn þeir skule mæta og framsylgia þeirra Action, hvad ef ei skedur, þá hafe þeir tapad Sókn og Søk honum í móte. Hr. Løgmannsens Sølvasonar Svar hier uppá er soleides: Ad so framt Sýsslumannsens Contra-Partar í áminstum Stefnu Søkum hafe ei innfunded sig i Løgþinges-Rettenum þann 8. Dag Løgþingesens sem ber uppá þann 14. inneverande Júlii, so hafe Sýsslumadurenn Halldór Jacobson ad setia enn vídara í Riett í móte þeim fyrer þeirra Forsómun og Udeblivelse. Adrer edur fleire Málspartar mættu ecke þó efterspurder og upphrópader væru, hvørs Vegna Løgþinges-Mennenner neyddust úr Rettenum ad gánga.

## Num. V.

Þann 9. Júlii settest Hr. Løgmadur Biørn Marcusson í Løgrettu, mætte so Philippus Ejólfsson fyrer Rettenum og framlagde Proces í því so kallada Hreppstióra Bókar Mále af 29 Maii 11 og 19 Júlii 1771. í hvørs Slútningu Philippus Ejólfsson er dæmdur ad betala sitt 3 Mk. og til Fátækra í Westmannaeyum 13 Hundr: 106½ Fisk med vídara sem same Proces og Dómur medfærer upplesenn og uppáskrifadur Not. Lit. B. Asamt nefndum Proces framlagde Philippus eina Seqvestrations og Executions Forretning af Dato 10 Aprilis, 21 og 22 Junii 1771 med Sýsslumannsens og tilkalladra þriggia Manna underskrifudum Nøfnum, upplesenn Sub Lit. C. Því næst framlagde hann Innlegg af Dags Dato, hvar inne hann átelur Sýsslumannsens Sigurdar Dómara ad giørder

giørder og óløglega giørda Seqvestrations Forretning og Arrest, uppástendur Satisfaction med vídara sem þad med sier ber uppleſed Sub Lit. D. Sýſslumadurenn Sigurdur Sigurdsſon framlagde einn Vitnaleidſlu Act af Dato 4. Maii ſídſtlidna geingenn ad Hvýtínga Þíngſtad af Sýſslumannenum Lyd Gudmundsſyne, hann uppleſinn Not. Lit. E. Því næſt lagde hann í Rettenn ſinna Meddóms-Manna Fullmagt dat. 29. Júnii næſtlidna til ad ganga í Rett og forſvara þeirra Dómaraverk í þeſſare Søk uppleſenn Sub Lit. F. Enn nú framlagde hann Innlegg af Dags Dato, hvar med hann forſvarar ſinn og ſinna Meddómsmanna Dóm og Dómara adgiørder med vídara; þad uppleſed Not. Lit. G. Philippus var fyrer Rettenum adſpurdur, hvørt hann hafe nockud ad útſetia uppá þá í Próceſſenum anførda Liqvidations Forretning? Hvar til hann ſvarade Ney. Philippus uppástendur Satisfaction af Meddómsmønnunum fyrer giørt Tort og Skada, enn Sýſslumadurenn ſeigeſt eí begiera Peninga útlát til ſín af Philippuſe, þar hann ſie fátækur, enn ſetur til Rettarens got Beſindende, hvørt Philippus ſkal eí tilſtreckelega anſiáſt fyrer grófar og óſannar Steſnu-ſaker; Vídara ſøgduſt Málspartanner eí hafa ad framfæra under endelegann Dóm.

## Num. VI.

Þann 10. Júlii ſetteſt Hr. Løgmadur Sveinn Sølvaſon í Løgrettu, framkom ſo fyrer Rettenn Sýſslumadurenn Halldór Jacobſon og framlagde Copie af Løgþínges Steſnu under Hende og Signete Hr. Vice-Løgmanns Jóns Olafsſonar af 20. Janúarii 1773 útgefna Atla Jónsſyne frá Bræku í Geiradals Sveit yfer Dóme Sýſslumannſens Sr. Halldórs Jacobsſonar áhrærande Hórdóms Sekt dæmda af Jóne Hannesſyne og Atla Jónsſyne. Uppástendur nú Sýſslumadurenn ad Søkenn í Anleidning af því Documente, ſem hann hier í Rettenn framleggur af Dato Felle þann 22. Octobr. 1772. ſem er Obligation Jóns Hannesſonar ad betala Hórdóms-ſektena vegna ſín og Sonar ſíns Atla til Sýſslumannſens í Stranda Sýſslu, uppleſed Not. Lit. A. verde ecke fyrertekenn, helldur álitenn ſem óløglega innſteſnd móte ofann anførdre Obligation, ſamt ad Citanten hafe tapad ſínu tiltale, og verde anſiedur af Løgþínges-Rettenum til Koſtnadar Betalings- og Satisfaction fyrer ſoddann óløglega Málsýſíng, óſkande hier uppá Hr. Løgmannſens úrſkurdar, hvørium hann loſar næſtkomande Mánudag.

## Num. VII.

Sama Dag var af Hr. Løgmannenum eſterſpurt, hvørt nockrer fleire Málspartar úr Nordann og Veſtann Løgdæmenu være til Løgþíngeſens komner? Hvar til nálæger Løgrettumenn ſvørudu Ney.

## Num. VIII.

Þann 12. Júlii F. M. mætte ad nýu Sýsslumadurenn Halldór Jacobsson og enn nú frambýdur sig ad svara til þeirra Saka, sem hann er innstefndur fyrir, uppástendur, ad síner Contrapartar verde tilbærelega ansieder til Mulcter og Kostnadar Betalings efter Kongl. Forordníngu. Voru nú upphrópader þeir somu sem Sýsslumannenum hafe innstefnt; Mæter so Sýsslumadurenn Jón Jónsson, sem framleggur Hr. Stift-Amtmannsens Constitution, under Dags Dato ad gánga í Rett sem Actor vegna Atla Jónssonar frá Bardastrandar Sýsslu upplesenn Not. Lit. B. þar næst framlagde Sýsslumadurenn Jón eina Løgþinges-Rettar Stefnu af 20. Januarii sídstlidna under Hende og Signete Hr. Vice-Løgmannsens Jóns Olafssonar, útgefna Atla Jónssyne yfer Dóme Sýsslumannsens Halldórs Jacobssonar, áhrærande Hórdóms-Sekt dæmda af Jóne Hannessyne og Atla Jónssyne med vídara sem Stefnann medfærer upplesenn Not. Lit. C. Sýsslumadurenn Halldór Jacobsson uppástendur enn á ný ad þessare Søk, í krafte af ádur upplesnu Documente hier í Løgþinges-Rettenum, verde í Dag frávísad, og Atle tilfundenn ad betala, fyrer óforsvarannlegt udeblivelse, efter Kongl. Forordníngu 1 Lód Sølv um Dagenn, samt Rett og Reparation efter Billegheitum; einnenn ad í ægt takest Løgþinges-Rettarens Hindrun og Uppehalld. Actor repliquerar hier uppá og uppástendur ad Søkenn verde nú strax fyrertekenn, þar Atle hafe vered hindradur af ó-edre á Reisunne og ófærum vøtnum, þar til sie praxis ad þeir sem hafa mætt fyrer Løgþinges-Rettenum þann 12 Júlii hafa eí vered mulcterader fyrer Udeblivelse. Hier uppá begiera báder Sýsslumennenner Rettarens Decision, sem losast á næstkomande Deige.

## Num. IX.

Sama-Dag setttest i Rettenn Hr. Løgmadurenn S. Sølvason, mætte so enn ad nýu Sýsslumadurenn Halldór Jacobsson uppá Mál Þórunnar Jónsdóttur, sem mentionerad er Num. 4. Er nú einnenn Þórun til Stadar og Hennar vegna framleggiande Documenter, Løgrettumadurenn Mr. Oddur Hialtalín. Sýsslumadurenn Halldór Jacobsson uppástendur ad nefnd Þórun verde ansied til Mulct, efter Kongl, Anordning til Løgþingesens fyrer Udeblivelse, og Kostnadar Betalings, hvørn Hr. Sýsslumadurenn vill hafa decideradann ádur Hann gange í Rett mót Þórune. Løgrettumadurenn Mr. Oddur uppástendur ad Þórune virdest til vorkunar þó hún hafe ecke kunnad fyrre ad innfinna sig þar hún vitad hafe, ad hennar tilsettur Procurator Sýsslumadurenn Magnus Ketelsson munde Documenterne Søkenne vidkomande innsenda og begierer Interlocutorium.

Num.

## Num. X.

Sama efter] Middag var af Hr. Lögmanne B. Marcússyne afsøgd efterfylgiande Dómsslútníng í því so kallada Hreppstióra Bókar-Mále frá Westmannaeÿum.

Underrót og upprune þessarar hér ad framann tracterudu Sakar er soleides: Ad Åred 1756 hefur Philippus Ejólfsson vered skickadur til Hreppstióra á Westmannaeÿum og honum þá afhendt ein innbundenn giegnum dreigenn og af Thanna þá verande yfervallde forsiglud Bók, hvar innfæraſt átte oll sú árlega Inntekt, sem tilheira skyllde Fátækum Hrepps ómögum á Westmanneÿum, og oll Skil, sem þar fyrer gioraſt skylde, þessa Reiknings Bók hefur Philippus einsamall hallded alla tíd af, án nockrar Forþeinkingar, allt inn til árſens 1771. Þá hann vard innvíkladur odrum Sokum, sem orsokudu ad noyere Eftersíón var giord um Bókarennar Medhondlan, og þar innfærdra Reikninga Rigtugheit, þá fyrerfannſt ad upp úr henne hofdu morg Blod skorenn vered, og önur aftur med tvinna innfeſt, efter sem í Hierads Próceſſen, halldenn ad Hvýtíngum á Westmanneÿum þann 20. Maii 1771 innfært er, áſamt Philippuſar Medkienníng um sonu úr Bókenne uppskornu Blod. Hier ad auke hafa fyrerfundeſt stór Misſmíde á þar innfærdra útgifta Rigtugheitum, þar imſar Persónur hafa aldeiles neitad og fyrerſvared, ad þeir medteked hafe þad er Philippus anfært hefur, ad til þeirra betalad sie, sem samanreiknad beþleypur sig uppá 5 Hundr. 71 Fisk, þar til kiemur af þeim útnefndu Reviſorer í Bókenne fyrerfundenn Misreikningur og Anteignelſer til árſens 1771, uppá 8 Hundr: 44 Fiska. Endelega framkiemur ad Philippus áred 1763 hafe medteked rúm 4 Hundr: sem var arfur tilfallenn Sveitar ómaganum Gudrúnu Olafsdóttur, er hvørge finſt anfærdur; af sama arfe hefur hún væntannlega í 2 Ár, nefnel. 1763- og 64 upphelldе feinged, þar í þann tíma sieſt ecke af Bókenne ad henne hafe af fátækra Gótſe nockud lagt vered, enn bæde fyrer og epter inn til hún deyde 1770. Enn hvad miked hún hafe þar af árlega uppbored, finſt helldur eckert umgeted. Hier fyrer utann er eitt og annad af minna verde, sem ecke eru giord gód Rigtugheit fyrer so í olln þessu eru af Philippuſe margar yferſíóner begeingnar, sem hann ecke hefur kunnad ad afſaka sig frá, utann med sínu Fáfræde, efter

sem

sem Herads Prócessen útvísar. Fyrer allt þetta so vel Sveitar Bókarennar órielega Medhondlan, sem Reikninganna órigtugheit, hefur Sýsslumadurenn Sigurdur Sigurdsson med sínum 8. Meddómsmonnum þann 19. Júnii 1771 á Hrýtínga Þínge dæmt nefndann Philippus til ad betala sine 3. Mk. og þar til 13 Hundr. 107 Fiska í Skadabætur til Fátækra í Westmanneýum item 90 al. í Málskostnad med vídara. Frá hvorium Dóme Philippus fyrer Rette appellerad hefur, so vídt þær honum uppádæmdu 3. Marks Bætur áhrærer, enn ecke hvad se útlátenn snerter, hvors vegna Sýsslumadurenn hefur þann 22. Júnii 1771 giort útlag af hanns Femunum til Fátækra uppá nefndar Skadabætur og Próceß umkostnad sem sama Forretning med sier færer. Aungvu ad sídur hefur þó Philippus innstefnt þeim heila Próces og Dóme ásamt Executions Forretningunne til Underkiendelse fyrer þennann Logþinges-Rett, hvar báder Partanner hafa framfært sitt Paastand og Forsvar í Sokenne under endelegann Logþinges Dóm, sem efter tiltale, giensvorum og fyrerfundnu Sakarennar ásigkomulage fellur soleides:

Sá Hierads Dómur sem Sýsslumadurenn Sigurdur Sigurdsson med sínum Meddómsmonnum þann 19 Júnii 1771. á Hvýtínga Þingstad afsagt hefur yfer Philippuse Eiólfssyne, skal standa vid sinn fulla Magt so vídt áhrærer þá 13 Hundr: 107 Fiska, sem þar inne eru af honum í Skadabætur til fátækra dæmder, sem og í tillite til þeirra 90 álna, er þá áliktad var, hann skyllde í Proceß umkostnad svara. Soleides er og so sú Exsecutions Forretning Confirmerud, sem Sýsslumadurenn þar uppá giorde þann 22. Júnii 1771, þar Philippus hafde í forveyen fyrer Rette neitad, ad hann í tillite til þeirra dæmdu Febóta appellera villde. Hvad þeim 3 Marks Bótum vidvíkur, sem felldar eru yfer nefndann Philippus fyrer Sveitar Bókarennar órielega Medhondlan og Reikninganna órigtugheit, þá er Hierads Dómurenn ad því leite upphafenn og fráfallenn, so sem soddann Umgángur vill framar tilreiknast fáfræde hanns og Efterþánkaleýse, hellddurenn ásetnings fullum prettum, Sierdrægne edur underhyggiu; Þad tilheyrde og hanns yfervallde, ad hafa tilbærelega Inspection yfer soddann fátækra Gótse, og ecke án eftersiónar betrúa þad einum einasta fáfródum og óvedurheftugum

ugum Manne til eigenn Rádstofunar og frí Dispensation-Proces Kostnadur til þessa Logþinges er upphafenn á allar Sidur.

## Num. XI.

Þann 13. Júlii F. Middag settest í Rettenn Hr. Løgmadurenn Sølvason, mætte so Sýsslumadurenn Halldór Jacobsson, óskar enn nú og uppástendur ad Sakennar mættu afgiøraſt og hans Contrapartar innfinna ſig, mætte og ſo Sýsslumadurenn Jón Jónsson uppá Atla vegna, var ſo af Hr. Løgmannenum Sølvasyne affagt Interlocutorium í þeirra Søk ſem fylger.

Þegar Atle Jónsson hefur betalad í Rettenn þær Bætur, ſem honum efter Kongl. Reſcript af 12. Aprílis 1751 tilkiemur ad ſvara fyrer hanns Udeblivelſe og Rettarens Perſónum þar vid órſakad uppehalld og Koſtnad í nockra Daga, kann og ſkal hanns Søk fyrertakaſt.

Var ſo af Løgrettumønnunum áliktad, ad hann ſkylde fyrer uppehallds Skuld betala 6. Lód Silfurs, hvar uppá Hr. Sýsslumadurenn Jón lagde í Rettenn uppá Atla vegna 2. L. Sølv, enn fyrer Reſten vilia Løgrettumenneuner hønum betrúa, hvar efter ad Søkeñ efter Hr. Sýsslumannſens Paaſtande var fyrertekenn. Uppáſtendur ſo Sýsslumadur Jón ad Proceſſen ſie upplesenn ſem efter hanns Begiæring ſkede og Not. Lit. D. Under eins framlagde í Rettenn Atle Jónsſon 4. Lód Silfurs. Vídara uppáſtendur Sýsslumadur Jón, ad þeſſe heile Proces og Dómur verde anſiedur ſem ipſo jure nullus þar hann laborere nullitate inſanabili:

1:o Vegna þeſſ ad Jóne Sál. Jónsſyne hefur alldrei løglega vered ſtefnt, þar hønum er ſtefnt í einum Píngbods-Sedle, enn Løgenn befala ad ſtefna einum med 2. Kaldsmøñum N. L. 1. B. 4. Cap. 2. Art. 2:o Skulu þeſſer Kaldsmenn eedelig afhiemla Stefníngunna, þá ſá ſtefnde eí mæter. Sieu nu þeſſer 2. Póſtar uaudſynleg Requiſita til einnrar løglegrar Stefuu; þá fylger uaudſynlega á efter, ad þeſſe heile Proces falle af ſiálfs ſins Þúnga ſem ein Bygning í Luften.

2:o Jón Hannesſon og Atle eru eí med einu orde ſtefnder, følgelig kunne þeim eingeun Løgdagur ad leggiaſt, þar eingen Citatio principalis var til þeirra undanuugeingenn; Þeir eru þó dæmder af Sýsslumannenum Halldóre fiarlæger, óſtefnder og óheyrder: Þetta in Forma. Hvad Materialia Sakarennar áhræer, ſo vídt ſem

vidkiemur Atla, þá hefur hann ei sem Erfinge befattad. sig med þennann Arf, so sem Fader þessburtdanda átte ad erfa N. L. 5. B. 2. Cap. 35. Art. helldur sem leigdur verka edur Sendemadur Fodur síns, flutt þetta Góts úr einum Stad í annann, án þess ad forretta nockur Skifte, so sem ei helldur kunne þar eckert Tilkall hafde til Arfsens N. L. 5. B. 2. Cap. 3. Art. Eingu ad sídur er hann dæmdur sem sá er forsómad hafe eins Skifteforvaltara edur Erfingia Pligter í því ad innehállda Hördóms Sekt Bródur hanns sem Dómurenn uppástendur".

3:o. Uppástendur Sýsslumadurenn Jón, ad sá Sedell, sem af Sýsslumanne Halldóre Jacobssyne er framlagdur under nafne Jóns Hannessonar innehalldande hanns loford fyrer sig siálfann og Son sinn Atla verde ecke antekenn í Reitenum, þar hañ er ei fyrer Hierads-Rette produceret, og allra sídst antakest fyrer løggyldt Bevís, so leinge hann er ei af þeim foregivne Forsatter Jóne Hannessyne annadhvørt vidgeingenn edur frágeingenn.

4:o. Uppástendur hann tilstreckelegar Bætur fyrer óløglega Máls-Jsing og skadesløs Proces Omkostning.

Hier uppá repliqverar Sýsslumadurenn Halldór Jacobsson soleides: Hvad Fyrerkalled snerter, móte hvøriu nú er exciperad citerade eg efter gamallre Landsveniu Jon heitenn Jónsson ad mæta á Kirkiubools Þínge þann 13. Maii 1772. og áttu hanns Erfingiar ad gegna því. So þeir nú ecke gete affakad sig med Fyrerkallsleyse, lagde eg þeim Løgdag þann 30. Septembr: og þad jafnvel þó Jón Hannesson hafe teked Gienmæle í Søkenne á því fyrra Þínge. Jón heitenn var mier ókiendur Madur nýkomenn í Sýssluna úr Bardastrandar Sýsslú og vard Bróder hanns openuber ad Hórdóme strax á efter. Jón heitenn var citeradur og þar efter lagdur Løgdagur í hálfann fimta Mánud. Þad atrid sem í Stefnunne stendur, í þeirre Sekta fríu Barneignar Tíd veit eg ecke hvørnenn útleggia skal, hitt veit eg ad *Delicta Carnis* hafa ecke vered látenn saklaus í nockru christnu Lande, en þá eru þau Saklaus látenn, ef ecke eru straffud: Meine Mr. Atle Forordninguna af 13. Júnii 1771. er þar vid athugande, ad hún strax efter nockra Mánude var af Hanns Majt. resuserud. Barn Jóns heitens fæddest í Augusto 1771 følgelig er náttúrlega aflad omtrent 5. Mánudum ádurenn Forordningenn var útgefenn; mier kom hún ecke í Hondur fyrr enn 4. Mánudum efter ad brot Jóns heitens auglýstest, ecke helldur skil eg ad Jón Hannesson og Atle gete forkastad þeim Bevíser, sem Processen med sier fører í mále þessu, því 8. Manna ærleg Vitnan fyrer Riette hier í Lande

Lande hafa ætíd haft Fidem publicam. Vidara refererar Sýsslumadurenn Halldór sig til producerads skriflegs Lofords Jóns Hannessonar samt Lovens pag. 714 og uppástendur ad sinn Dómur verde confirmeradur, og Atle tilbærelega til Retta settur fyrer öll þau Gravamina, sem hann hafe sýnt Rettenum og sier fororsaged. Til síðst tilspurde Hr. Lögmadurenn, hvört Hördóms broted hefde ei vered til? Hvad Atle medkiende í heila Lögþinges Rettarens áheyrn. Hvar efter Partanner søgdust ei hafa vídara ad framfæra.

## Num. XII.

Sama Dag E. Middag var setst í Lögrettu og af Hr. Lögmanne S. Sølvasyne uppleséd so látande Interlocutorium í Mále Þórunar Jónsdóttur:

Hvad Sýsslumannsens Halldoors Jacobssonar Paastand í móte Stefnu Þórunar Jónsdóttur áhrærer, þá er þad beþeinkiande, ad nefnd Þórun hefur fyrer nockrum Døgum vered til Stadar hier á Løgþingenu, kann þar fyrer ecke ad mulcteraft ellegar ad hafa tapad sinne Sokn, þó annadhvort hennar Constitueradur Talsmadur, edur sá sem henne skylde Talsmann setia hafe vered forhindradur inntil þessarar Tídar, helldur skal nú Þórunnar Sok fyrertakast og afgiörast so vidt ad Løgum byriar og ske kann.

Sýsslumadurenn Halldór Jacobsson efterspyr, hvört nockud være framar á móte sier ad framfæra í Rettenum í Dag? hvar uppá Hr. Lögmadurenn svarade ad hann visse ecke. mætte so Sýsslumadurenn Gudmundur Runólfsson efter Hr. Stift-Amtmannsens Ordre ad gánga í Rett vegna Þórunar, sem þær upplesnar medfæra og Not. Lit. A. Framlagde hann so Løgþinges Rettar-Stefnu þá so nu sem fyrerfarande ár var upplesenu og protocollerud med uppáskrifad Forelæggelse til Sýsslumannsens Hallsdórs Jacobssonar, sem hann ecke frágeinglir ad auglýst mune vered hafa á sinu Heimile þá hann var siálfur staddur á Þingeyra Klaustre, hvört Forelæggelse nú var upplesed under sømu Lit. sem Stefnann. Uppástendur nú Sýsslumadurenn Halldór Jacobsson ad Søkenne verde frávísad, þar aller vidkomendur í Hierade sieu ecke innstefnder, og hann einn finne sig ecke skylldugann til Sakarennar ad svara, ad þeim óstefndum. Sýsslumadurenn Gudmundur Runólfsson protesterar mót þessare Sýsslumannsens Jacobssonar Exception mót Stefnunne, og uppástendur ad hún verde ansied sem útflugter, því hann nafngreine eingann Vidkomande og Processen bere þad ei

B 2 med

med sier. Sýsslumadurenn Jacobsson begiærer Interlocutorium uppá þessa Exception. Sýsslumadurenn Gudmundur bidur um̃ Dilation til Morguns hvad af Rettenum er tilláted.

## Num. XIII.

Sama epter Middag setteſt í Løgþinges-Rettenn Hr. Løgmadurenn Biørn Marcússon mætte so Sýsslumadurenn Jón Jónsson sem beordret Actor og fram̃lagde eina Løgþinges Rettar Stefnu̇ af 12. Hujus under Hende og Signete Hr. Løgmanns Marcússonar hvar med stefneſt Sýsslumadurenn Steindór Finnsson til ad forsvara sinn Hierads Dóm yfer Signýu Gudmundsdóttur í hennar Tugthus Søk; Signý stefneſt og ad lída endelegann Confirmations Dóm uppá 3. Ara Erfide í því Islendska Tugthúse, med vídara sem Stefnann med sier ber, upplesenn Not. Lit. A. Þar næst fram̃lagde Actor Proces og Dóm geingenn ad Hraungerde þann 22. Maii og 26. Júnii a. c. I hvørs Slútningu Signý Gudmundsdótter er dæmd ad erfida í því Islendska Tugthúse í 3. Ar, fyrer lete, Þverúd, Strokur, med vídara sem same Proces og Dómur medfærer upplesenn Not. Lit. B. Delinqventinden játar þad satt vera, sem Processen um̃ hana seiger. Sýsslumadurenn Jón sem Actor uppáſtendur, ad so sem þad sie af Vitnaleidslunne sem Acten í þessare Søk med sier fære nóglega bevísad, ad Signý Gudmundsdótter hafe í sinu líferne fared veſtnande sídann Aret 1771, þá hún var med einum Løgþinges Dóme frikiend fyrer Tugthús Straffe uppá Von um forbetran, so kunne Delinqventen ei framar ad frí-aſt frá því velforþienta Tugthúss Straffe, þar til hafe politie-age med Gapaſtock vered brúkadur vid hana, enn forgiefens, følgelig hliote nú ſkarpare Juſtitz-age ad efterfylgia, allt efter Løgum og Forordningum begierer so ad Dómur Sýsslumannsens Steindórs yfer Signýu Gudmundsdóttur verde í øllum sinum atridum, sem Løgum samkvæmur aldeiles Confirmeradur. Sýsslumadurenn Steindór Finnsson uppáſtendur, ad sinn yfer Signýu geingen Dómur uppá 3. Ara Erfide í því Islendska Tugthúse verde Confirmeradur. Sýsslumadur Sigurdur Sigurdsson sem tilſkickadur Talsmadur Signýar uppáſtendur ad Hierads Dómurenn verde modereradur uppá 1. Ar ad erfida í Tugthúsenu i ſtadenn fyrer 3. þar hún mune vera sávís og ei hafa Rád ad ſtiórna sinum Gedsmunum.

## Num. XIV.

Sama epter Middag kom fyrer Rettenn Sýsslumadurenn Gudmundur Runólfsson og Compagniets Fullmegtugur Hans Lindberg og søgduſt híngad ſtefnder af Hr. Landfóget-

Landfógetanum Skúla Magnússyne og frambudu sig til þeirrar sömu Stefnu ad svara, var so sendt Bod med Lögrettumannenum Odde Hialtalin til Hr. Landfógetans ad hann villde hier mæta til ad framfylgia þeirre af hönum híngad innstefndu Sök, en hann med sama Bode aftur tilbaka, bad um Dilation til næstu Session, hvad hönum er af Rettenum efterláted.

## Num. XV.

Þann 14. Júlii affagde Hr. Lögmadurenn B. Marcússon efterfylgiande Dómslútning í Tugthús-Sök Signýar Gudmundsdóttur úr Arnes Sýslu.

Þad er audsied af þeim Proces, sem geingenn er á Hraungerdes Þínge þann 22. Maii næstl. ad Delinqventinden Signý Gudmundsdóttir hefur í aungvu betrad sig í Framferde edur lifnade sínum sídann hún Ared 1771. var í Hierade dæmd til Tugthuss Erfides í 3. Ar, enn vegna hennar gódu loforda um Forbetrun Líferneſens var henne fyrer Lögþínges Rettenum vægt þar frá í þad sinn, þvi dæmest hún nú til ad erfida í því Islendska Tugthúse í næstu 3. Ar efter Hierads Dómsens Innehallde, hvor hier med er í alla Stade Confirmeradur.

## Num. XVI.

Sama F. Middag affagde Hr. Lögmadurenn S. Sölvason efterfylgiande Dómslútning í mále Atla Jónssonar móte Sýslumanne Halldóre Jacobssyne.

Sú Kongl. Anordning af 13. Júnii 1771. áhrærande Legordsbóta og Straffs Eftergiof, er fyrer vissar og vigtugar orsaker upphafenn og afturkollud med annare Kongl. Anordning af 27. Februarii 1772. hvaraf fylger, ad þau Fríheit, sem brotleger menn í lauslætes Sökum hafa sier innbirlad, kunna ecke finna nockurn Stad, og í slíku tillite hefur Sýslumadurenn Halldor Jacobsson rettelega kallad og dæmt Hórdóms Sekt af Jóne heitnum Jónssyne, hvorre Sök af Atla Jónssyne nu fyrer nærverande Logþínges Rett er innstefnt; Enn Sýslumannsens Dómur so vidt hann í sinn verulegu Efne áhrærer kann ecke fyrer óloglegann ad álítast, allt so ecke helldur Sýslumadurenn þess vegna í nockur Peninga útlát til Sakarennar vidkomenda ad dæmast; Einasta þar þeir eru utann Stranda Sýslu, so hefur Sýslumadur Jacobsson



son



sott ecke siálfur ad skaffa sier Rett ne Execution yfer Jóne Hannessyne ne Atla Jónssyne í þessare Sök, helldur adressera sig med sína Fordring til Stædets Övrigheds og ordinaire Dómara þar sem nefnder Sakarennar vidkomendur sig uppehallda. J h:nseende til Sakarennar ásigkomulags dæmest eingen málskostnadur þetta sinn..

Frá þessum Dóme appellerade Atle Jónss n til ædre Rettar.

## Num. XVII.

Sama F. M. var af Hr. Lögmanne S. Sölvasyne affagt eftersylgiande Interlocutorium í Sök Þórunar Jónsdóttur up;á Málspartanna Paastand á fyrerfarande Deige.

Efter því þeir vidkomendur Sakarennar í mále Þórunar Jónsdóttur úr Stranda Sýsslu, fyrer hvorra Skulld Sökenn ei skylde edur kynne fyrertakast, eru ecke af Sýsslumannenum tilnefnder; So hlýtur Hierads Acten í sömu Sök ad upplesast, so þar af slúttast meige, hvorier sieu þeir vidkomendur, sem naudsynlega hefdu átt ad innstefnast.

Því næst framlagde Sýsslumadurenn Gudmundur Runólfsson sem Actor Proces og Dóm í þessare Sök af Dato 1769 5. Augst. hvar inne Þórun Jónsdótter er dæmd til ad betala 10. Rixdl. Croner til Justitz-Cassen, 60. al. til Fátækra og 4. Mark Dansk til Kirknanna Fells og Trollatúngu, þar fyrer utann ad rýma Sýssluna, under Straff ad lída Húdláts Refsing med vídara sem nefndur Proces og Dómur medfærer upplesenn Not. Lit. B. Sýsslumadur Gudmundur uppásteudur ad Þórunne hafe allrei vered stefnt í Hierade, helldur dæmd af Sýsslumanne Halldóre Jacobssyne ósteind; Þórún tilspurd um sama? seiger, ad hun hafe alldrei heyrt nefnda Stefnu. Hvar til Sýsslumadur Halldór Jacobsson svarar, ad Defensor Þórunnar í Hierade hafe játad hennar vegna sig ánægdann med Dómenn, sem og ad Þórun sie bæde stefnd og lika henne Defensor skickadur, sølgelig hún ecke med neitt slag graverud í þessu Mále. Sýsslumadur Gudmundur Runólfsson framlagde Hr. Stift-Amtmanns THODALS Missive af 16. Martii 1772 til Sýsslumannsens í Dala Sýsslu Magnúsar Ketelssonar vídvíkiande því hvørt nøyere Ransókn þurfe ad giørast í Þórunnar Sök, helldur enn ádur giørd er, med vídara sem þad medfærer upplesed Not. Lit. C. Sýsslumadurenn H. Jacobsson begierer nú af Rettenum ad fá sem fliótast útskrift af hier producerudu Hr. Stift-Amtmannsens Brefe samt Dilation til í Eftermiddag edur á Morgun, ad svara vídara uppá

sama,

sama, og ad fleire Document í Søkenne sien ei í midlertid í Rettenum upplesenn, hvad Sýsslumanneyum er af Rettenum tilláted. Nefnt Hr. Stift-Amtmannsens Bref, sem Sýsslumannenum Halldóre var frá Rettenum leverad til yferskodunar, hefur hann nú aftur í Løgþinges-Retten frambored og afhendt. Þar næst framlagde Sýsslumadurenn H. Jacobsson eitt pro Memoria af Dags Dato, hvar inne hann uppástendur, ad Søkenne sie frá þessum Rette vísad til nákvæmare Ransóknar heim í Hierad í Bardastrandar og Stranda Sýsslur, þar nefnt Hr. Stift-Amtmannsens Bref gefe Anleidning til ad nákvæmara Forhør þurfe í þessare Søk, sem þad vídar med sier ber, uppleſed Not. Lit. D.

Vídara protesterar Sýsslumadurenn H. Jacobsson ad nockur sins Contraparts Document verde í Rettenn antekenn fyrr enn kiend er uppá þesse Exception. Sýsslumadurenn Gudmundur Runólfsson uppástendur, ad hann skilie ecke af hier framløgdu Hr. Stift-Amtmannsens Brefe, ad þad giefe nockra Anleidning til uppehallds edur Heimvísunar í þessu Mále, hvar fyrer hann í krøftugasta Máta protesterar þess langdrátt, begierer ad Søkenn gange fort, og frambýdur enn sem fyrr Innlegg til Sakarennar Framgangs og bidur ad þad upplesest leggiande þad í Retten. Sýsslumadur H. Jacobsson protesterar ad nockurt vídara verde fyrerteked í þessum Rette fyrr enn Hr. Løgmadurenn hafe uppákient med Interlocutorio sina Exception.

## Num. XVIII.

Sama E. M. ad Hr. Løgmanne B. Marcússyne í Løgrettu setstum mætte fyrer Rettenum sá Constitueraðe Sýsslumann Olafur Erlendsson sem tilskickadur Actor í móte Delinqventinden Margrete Gudbrandsdóttur frá Westmanneyum og framlagde eina Løgþinges-Rettar-Stefnu af 12. Hujus under Hende og Signete Hr. Løgmannsens B. Marcússonar, hvar inne stefnast til þessa Stadar og Dags Sýsslumadurenn Sigurdur Sigurdsson med 8. Meddómsmønnum til ad forsvara þeirra þann 22. Júlii á Hvýtinga Þingstad 1771 í Dulsmáls Søk nefndrar Margretar affagda Hierads-Dóm. Delinqventinden Margret med sinum Talsmanne stefnest og til Sakarennar ad svara under endelegann Løgþinges Dóm, efter sem sama Stefna Vidkomendum auglýst vídar útvísar upplesenn Not. Lit. A. Var því næst upplesenn Extra-Løgþinges Dómur geingenn ad Reykiawík þann 7. Augst. 1771. hvar inne þessare Delinqvent Søk er heim vísad til nøyere Ransaks og løglegrar afheyrslu tveggia ádur afheyrdra Vitna nefnel. Gunnhilldar Jónsdóttur og Ingvelldar Gudmundsdóttur, hvørra ydsigende Sýsslumadur Sigurdur

urdur er skylldugur dæmdur løglega ad taka og ásamt Delinqventinden Margrete Gudbrandsdóttur fyrer næstlidens Ars Løgþinges-Rett ad framfæra under endelegann Dóm Sýsslumadurenn Sigurdur Sigurdsson hier nálægur yferlýser ad á næstl. Are hafe hann ecke kunnad søkum ógiæfta og Forfalla til Løgþingesens komast, enn hafe þó láted yferheyra þær Persónur, sem Extraløgþinges Dómurenn fyrerskrife ad yferheyrast skule, og framlagde so Actor Vitnesburd Ingvelldar Gudmundsdóttur tekenn þann 9. Júnii 1772 efter sem sama Þíngsvitne vídar útvísar, hvørutveggia Not. Lit. B. og C. Eyds aflegging Gunnhilldar Jónsdóttur tekenn af Sýsslumanne Lyd Gudmundssyne ad Dýrhoolum í Mýrdal þann 6. Júlii 1772 var og so upplesenn og Not. Lit. D. Delinqventinden hier enn á ný fyrer Rettenum examinerud medkienner hid sama, sem ádur fyrer Extra-Løgþinges-Rettenum medkient hefur um Fædingu sins Barns og hennar medferd á því, nefnelega ad hún fædt hafe lifande Stúlkubarn, skiled á mille med Hnif, sídann skored Barned á Háls og kastad því so í óseun, sem Siór gánge uppi, þar rett vid, sem hún fædde. Actor uppásteudur ad Delinqventinden dæmest efter N. L. 6. Bók. 6. Cap. 7. Art. Sýsslumadur Sigurdur begierer ad sinn Dómur verde Confirmeradur. Delinqventindens tilskickadur Defensor Sýsslumadurenn Halldór Jacobsson óskar ad Delinqventinden forklare enn nú betur, í hvøriu henseende hún hafe sitt lifande Fóstur deydt, edur hvert hún hafe ei vitad, hvada Straff þar vid lá, efter hvøriu hún var nú spurd fyrer Rettenum? Hvar uppá hún svarar, ad hún hafe giørt þad í Pyckinleyse og Efterþankaleyse, og seigest ei vitad hafa hvada Straff þar á efter kynne fylgia: I tillite til þessarar hennar Medkienningar vonar Defensor ad Dómurenn verde modereradur, søgdust so Partanner ei hafa vídara ad framfæra under endelegann Dóm, sem af Hr. Løgmanne B. Marcússyne þann 14. Júlii 1773 soleides var affagdur.

Delinqventinden Margret Gudbrandsdótter, sem so vel fyrer þessum Løgþinges Rette sem ádur fyrer Hierads- og Extra-Løgþinges Rette hefur óneidd, laus og lidug játad og medkient, ad hún á Góu um veturenn 1770 hafe ecke einasta fædt Barn í Dulsmále, helldur og þad sama lifande á Háls skored og sídann í siáfarós kastad, skal fyrer soddann óchristelegt verk og óhæfu Giørning á lífenn straffast soleides, ad hún skal hálshoggvast og Høfuded uppá stiaka setiast efter N. L. 6. B. 6. C. 7. Art. þó má efter þessum Dóme eingenn Execution ske, fyrr enn Søkenn er uppádæmd af ædra Rette; I midlertid forblífur hún í Varatekt hiá Sakafalls Forpagtaranum í Westmanneyum.

Num. XIX.

## Num. XIX.

Sama E. M. kom astur fyrer Rettenn Sýsslumadurenn Gudmundur Runólfsson og Compagniets Fullmegtugur H. Lindberg, sem begierdu ad sú Søk være fyrertekenn í hvørre þeir híngad stefnder væru af Hr. Landsógetanum Skúla Magnússyne, hvørs vegna frá Rettenum sendt var til Hr. Landsógetans, frá hvørium sodann Svar aftur kom, ad þar sem Hr. Løgmadurenn Biørn Marcússon være Interesseret í þeirre af hønum innstefndu Vitnaleidslu Søk, þá sie einn annar Dómare af Hanns Hávelbaarenheitum Hr. Stift-Amtmannenum í Málenu tilsettur, og nær hann kalle sig fyrer, vilie hann sinne Sókn framfylgia.

## Num. XX.

Þann 15. Júlii F. M. mætte Sýsslumadurenn Gudmundur Runólfsson uppá sømu Søk sem hier var næstl. Dag agerud og uppsagde Hr. Løgmadurenn Sølvason solátande Interlocutorium uppá Partanna ádur innfærdar ástædur.

Jafnvel þó Sýsslumadurenn Halldor Jacobsson hafe giort Protest í móte Sýsslumannsens Gudmundar Runolfssonar vídare Documenta Framlegging í Søkenne samt til ad koma í veg fyrrer alla Beskyldning um Rettarneitun skal þad Innlegg sem Sýsslumadurenn Gudmundur vill í Rettenn framleggia, upplesast og fyrertakast.

Vid næst framlagde Sýsslumadur Gudmundur Innlegg af 16. Júnii næstl. under Nafne Sýsslumannsens Magnúsar Ketelssonar. Hvar med hann átelur Dómaraverk Sýsslumannsens Halldórs í Søkenne, og uppástendur Bætur, Satisfaction og Málskostnad, sem þad vídar medfærer uppleséd Not. Lit. E. Sama Innlegge fylger Kostnadar Reikníngur af 16. Júnii sídstlidna uppá 52 Rdsr. 34 Sk. upplesenn Not. Lit. F. Reikníngnum fylgia 4. Bilager upplesnar og numereradar. Sýsslumadurenn Gudmundur Runólfsson uppástendur ad Sýsslumadur Halldór Jacobsson dæmest efter Vitna Forordníngarennar Fyrermælum fyrer sín 2. óþarfa Interlocutoria, med hvørium hann hafe Rettenum uppehallded í 2. Daga, sømuleides ad hann tildæmest ad svara sier og Þórunne tilhlídelegum Bótum fyrer 3. Daga uppehalld. Vídara refererar hann sig til ádur framfærds Innleggs. Løgrettumadurenn Oddur Hialtalín var sendur til Sýsslumannsens Halldórs Jacobssonar, sem seiger sig ópasserligann til Heilsu, bidur um Dilation til í Eftermiddag, ad svara uppá Innlegged.



XXI.

## Num. XXI.

Sama F. M. framlagde Sýsslumadur Gudmundur Runólfsson, Fullmagter vidkomenda til ad agera þá Søk, sem í næstl. Ars Løgþinges-Rette var áhrærd og uppsett under Num. 31. þá fyrstu under Nafne Prestsens Sr. Arna Þórarenssonar af Dato 8. Júlii sídstl. upplesenn Not. Lit. A. Adra under Nøfnum Biørns Loptssonar, Th. Jónssonar og Arngríms Jónssonar af Dato 14. Júnii 1772. og 29. Júnii sídstl. upplesenn Not. Lit. B. og þá 3. Fullmagt under Nafne Pauls Paulssonar dat. 10. Júnii næstlidna sem Not. Lit. C. Því næst framlagde Sýsslumadurenn Uppsetning Sakarennar í Løgþinges-Rettenum næstl. Ar, hvør auglíst hefur vered nockrum Vidkomendum í Hierade sem hún vídar medfærer upplesenn og uppáskrifud Not. Lit. D. Voru sídann upphrópader verjendur og fleire vidkomendur Sakarennar og mæter eingenn af þeim edur nockur þeirra vegna; En Sýsslumadur Gudmundur framleggur Þings-Act í Søkenne geingenn þann 26. Septembr. 1769. af Sættedómaranum Einare Magnússyne med afrísníngu uppá Prætulandanna Situation, hvør upplesenn Not. Lit. E. Annann Þings-Act framlagde hann af Dato 7. Júnii 1770. sem slúttast med Interlocutorii Kiendelse, ad Søkenn skule nú dæmast nema veriande appellerade med vídara sem þad medfærer, upplesenn Not. Lit. F. Þridia Act framlagde Sýsslumadurenn af 22. Júnii 1771. í hvørs Slútníngu ad diversa Vota hafa falled mille Sættedómarans Einars Magnússonar og 7. Meddómsmannanna um Prætulanded kallad Harastada Teig, sem Sættedómarenn og 1. af Meddómsmønnum hafa álíktad ad tilheyra Harastødum en hiner 7. hid sama Land álíted ad heyra til Jørdenne Klombur, upplesenn Not. Lit. G. Innlegg framlagde hann under Nafne Løgsagnarans Mr. Arngríms Jónssonar af 28. Júnii a. c. hvar inne hann demonstrerar Sakarennar ásigkomulag, þad upplesed Not. Lit. H. Noch annad Innlegg af 28. Júnii sídstl. sem er Mr. Arngríms Paastand og í Rettesættelse mót Sigurde á Klombur, upplesed Not. Lit. J. Enn nú Kostnadar Reikníng uppá Søkena í Hierade under Nafne Mr. Arngríms Jónssonar af 20. Júnii a. c. upplesenn Sub Lit. K. Ad sídustu framlagde Sýsslumadurenn Innlegg af 8. Júlii a. c. under Nafne Prestsens Sr. Arna Þórarenssonar, hvar med hann demonstrerar Søkena og óskar ad Hierads-Dómur Sættedómarans Einars Magnússonar samt hanns Meddómsmanns Biørns Loptssonar verde Confirmeradur en Sigurdur Jónsson til Sekta og Kostnadar Betalíngs ansiedur med vídara sem þad medfærer uppleseed Not. Lit. L. Munnlega uppástendur Sýsslumadurenn ad Vidkomande Málsparta Udeblivelse hindre ecke Sakarennar Framgang, hvar uppá hún er til Dóms upptekenn.

Num. XXII.

## Num. XXII.

Sama E. M. mætte Sýsslumadurenn Halldór Jácobsson og framfærde sitt Svar uppá þad sem í Formiddags hønum vidkomande hefur í Rettenum framfared so hióðande: Jafnvel þó þad sie øllum heilvita mønnum augliöst, ad eg in Facto hafe í eingann Máta fornærmad Þórunne Jónsdóttur, þar hennar Straff og Febætur ern alleina in Subsidium og Hún hefur enn nú eckert undir þeim Dóme lided, tek eg þó eingum Gienmælum framar í þessu Måle, so sem bæde Actorum Reikníngur, Innlegg og Paastand eru eí þ ss verd, án vídara Forsvars fyrr enn Måled er betur prófad og appellera þess vegna frá hier í Dag afsagdre Dicision, er meina ad sigte til Rettens Fornægtelse, leggiande hier med skrifara Penínga í Rettenn :: 3. Lód Sølv og begiære Processen hier med sem fliótast utskrifadann Vide Lovens Pag. 81. Art. 17. Vídara sagdest hann ecke hafa í Rettenum ad tala og eingum vídare Gienmælum taka, hvar uppá hann absenterade. Sýsslumadur Gudmundur Runólfsson uppástendur, ad þetta Sýsslumannsens Hall, dórs Paastand ansiáest sem útflugter og refererar sig til síns ádurgiørds Paastands ad Søkenn gánge fort, var hún so til Dóms upptekenn.

## Num. XXIII.

Sama E. M. komu enn á ný fyrrer Rettenn Sýsslumadurenn Gudmundur Runólfsson og Compagniets Fullmegtngur Mr. Lindberg og begierdu ad sú Søk, sem Landsógetenn hefde þeim híngad innstefnt fyrer, være nú loksens fyrertekenn, þar Landsógetenn hefde enn nú ecke mætt edur framlagt þá Authorisation sem hann Num. 19. hafe beraabet sig uppá, og begiera ad Søkenne verde frávísad og þeim Kostur og Tæring tildæmdur. Var so enn nú á ný sendur Løgrettumadurenn Oddur Hialtalín til Landsógetans med þau Skilabod, ad hann annadhvørt siálfur mætte til ad framfylgia Søkenne edur innsenda nú strax þá Authorisation sem skule útgefenn vera til annars Dómara ad kienna og dæma í þessare Søk. J midlertid frambióda hans Contrapartar fyrer Rettenn þau Document sem þeir hafe í Søkenne ad framvísa nefnel. Copie af Løgþínges Stefnunne af Dato 9. Júnii a. c. samt Mr. Lindbergs Contra-Stefnu af Dato 21. Júnii sidstl. samt Hierads Þíngs-Acten af 13. Aprilis næstl. sem og Mr. Lindbergs Innlegg af 8. Hujus. Uppástendur hann og ad Laudsógetenn auk ádurskrifads verde mulcteradur til Løgrettu og Løgrettumanna. Þar efter innsende Hr. Landsógetenn S. Magnússon í Rettenn Hans Hávelbaarenheita Hr. Stift-Befalíngsmannsens Authorisation til Hr. Løg-

manns Sølvasonar í Løgmanns Marcússonar Stad og hanns Forføllum ad dæma í þessare Søk fyrer þessum Løgþínges Rette efter sem sama Authorisation af 13. Hujus medfærer, upplesenn Not. Lit. A. Þar efter setteſt í Rettenn Hr. Løgmadurenn S. Sølvason en Compagniets Fullmegtugur Mr. Lindberg framleggur eina Contra Stefnu under Dato 21. Júnii ſídſtlidna, hvar inne ſtefndur er Sýſſlumadurenn Gudmundur Runólfsſon næſt Hr. Landſógetanum Skúla Magnúsſyne til ad forsvara þeirra umgang í Søkenne þann 30. Martii næſtl. ſídann 13. April fyrer høldnum Rette ad Reykiawyk, ſier í lage Sýſſlumadurenn Gudmundur, hanns affagda Kiendelſe af 13. Aprilis ſídſtl. ad til og forſvara, báder Partanner Dóm ad heyra, upplesenn og uppáſkrifud Sub Lit. B. Þar næſt framlagde Mr. Lindberg eina Copie af Hr. Landſógetans Skúla Magnússonar útteknne Løgþíngs-Rettar Stefnu í ádur anførdre Søk, hvør efter Partanna Begiering var upplesenn og Not. Lit. C. Enn nú Hierads Proces af 13. Aprilis a. c. af hvørium efter Partanna Begiering var uppleſed þad sem þeir villdu uppleſed hafa uppáſkrifadur Not. Lit. D. Til ſídſt framlagde hann eitt Innlegg af 8. Hujus hvar med hann demonſtrerar Sakarennar áſigkomulag og uppáſtendur ad Landſógetenn verde tilſundenn ad lída efter 1. B. 9. Cap. 11. Art. í Norſke Lov og betala Proceſſens Umkoſtnad med vídara ſem Innlegged medfærer uppleſed Not. Lit. E. Vídara refererar hann ſig til ſíns áburgiørds Paaſtands vidvíkiande Koſt og Tæring, samt uppáſtendur ad Landſógetenn verde mulcteradur til Juſtitz-Caſſen fyrer ſier giørt Tort og Credit ſpilde og því næſt inuſtiller Søkena til Dóms. Sýſſlumadur Gudmundur uppáſtendur ad Landſógetenn verde tilſundenn ad hafa tapad Søkenne og begierer Koſt og Tæring og Satisſaction fyrer gróſar Beſkylduingar; Enn þar ſem Hr. Landſógetenn er nú ecke til Stadar og eingenn uppá hanns vegna, ſo geſa Partanner hønum Tíd og anſtand til á Morgun Formiddag ad ſvara til Sakarennar.

## Num. XXIV.

Þann 16. Júlii F. M. ſetteſt í Rettenn Hr. Løgmadurenn S. Sølvaſon, framlagde ſo Sýſſlumadurenn Jón Jacobsſon Hr. Amtmans Stephánssonar Ordre ad ganga í Rett og forſvara þá Søk fyrer Sigurd Jónsſon, ſem híngad er ſtefnd vidvíkiande Prætumálenn mille Jardar-Eigenda Klambra og Haraſtada, þær upplesnar Not. Lit. M. Þar efter framlagde hann Innlegg under Sigurdar Nafne af 1. Júlii a. c. hvarmed hann begierer ad Søkenne ſie heim í Hierad víſad til nøyere Ranſaks og nýrrar áreidar med vídara ſem þad medfærer, uppleſed Not. Lit. N. Vídara framlagde Sýſſlumadurenn

urenn Jón Jacobsson eitt Innlegg af 19. Júnii næstl. under Nafne þeirra 7. Meddómsmanna, sem Dómenn Sættedómarans ei samþycktu, hvar med þeir demonstrera Sakarennar ásigkomulag og forsvara hvar fyrer þeir hafe ei viliad vera Samþycker Sættedómarans Dóme med vídara sem Innlegged medfærer uppleſed Not. Lit. O. Munnlega uppástendur Sýsslumadur J. Jacobsson ad Sættedómarans áreid og Dómur álitest so sem Ipso jure Nullus, so sem hann alleina med einum Dómsmanne hefur Søkena afgiørt, og vídara refererar hann sig til framfærdra Innleggia. Sýsslumadurenn Gudmundur uppástendur, ad þetta ecke hindre Málsens Framgang og ad endelegur Dómur gange nú í Søkenne, en protesterar móte hennar Heimvísun og refererar sig þar hiá til framlagdra Documenta síns Principals sem klárlega sýne ad áreidenn sie giørd á Prætuplátsed. Sýsslumadur Jacobsson begierer Interlocutorium uppá þessar ástædur. Hier uppá fiell solátande Rettarenns Afsigt.

Só sem þad er af Sýsslumannenum Jone Jacobssyne vegna Sigurdar Jónssonar í Klombur framfært, samt í Inlegge þeirra 7. Meddómsmanna í Hierade, ad sú áreid á Landed mille Klambra og Harastada, sem af Sættedómaranum Einare sál. Magnússyne giord var sie ófullkomenn og óefterrettanleg, hvar fyrer óskad er, ad sömu Sok verde aftur í Hierad heimvísad til nákvæmare Ransóknar, þá þar sem sýnest ad efter 3. Þíng þar yfer halldenn, Besigtelse og Granskning mætte heita afgiort af einum underdómara. So tilkiemur þad Sakarennar vidkomendum, sem ecke vilia vera ánægder med Sættedómarans adgiorder, ad begiera og bekosta Logmanns áreid á Prætu Stadenn, og hafa því aflokeð fyrer næstkomande Septembr. Mánadar útgang.

Báder Partanner seigiast vilia hafa sier forbeholdet ad innstefna þessu Afsigte.

## Num. XXV.

Sama F. M. var af Hr. Løgmanne S. Sølvasyne affagdur efterfylgiande Dómur í Søk Þórunnar Jónsdóttur móte Sýsslumanne Halldóre Jacobssyne.

Dómur Sýsslumannsens í Stranda Sýsslu Halldors Jacobssonar geingen ad Kirkiuboole þann 5. Augst. 1769 yfer Þórunne Jónsdóttur, er efter Kongl. allranádugustu opreisning fyrer þennan Logþínges-Rett innstefndur og hier uppátaladur sem óveniulega hardur og ógrundadur, hvar i mote Sýsslumadr



hefur

hefur eckert markverdugra framfært, enn eitt Paastand, ad þessare Sok verde aftur heimvísad til vidare Ransóknar í Hierade, en þó so kunne vera, ad nockrar Sakarennar Kríngumstædur, efter sem nú er komed, forþienudu betur ad undersækiast; Samt er Sýsslumannsens Dómur ecke þar med legitimeradur því einn Dómur má vera grundadur á því sem bevísad er, en ecke því sem uppgotvast kann; Því ad ollu sliku at huzudu, dæmest hier med, ad fyrrnefndur Dómur af 5. Augusti 1769 yfer Þórunne Jónsdóttur skal vera upphafenn og underkiendur, og eí koma henne til nockra giallda, hvorke uppá líkamastraff ne Penínga Sekter, helldur betale Sýsslumadurenn henne til Satisfaction 4. Hundr. á Landsvísu, enn upp í Kostnadar Betalíng til Actor 3. Hundr: og endelega í følge af Kongl. Anordning til Justitz-Cassen 2. Rdlr. þetta allt innann 6. vikna frá Dómsens Dato afloked, under adfor og Execution ad Logum.

## Num. XXVI.

Sama F. M. kom í Rettenn Sýsslumadur Jón Jacobsson og framlagde Fullmagt Hr. Landsfógetans Skúla Magnússonar af Dags Dato til ad gánga í Rett uppá hanns vegna í þeirre somu Sok, sem er í millum hanns og Compagniets Fullmegtugs Hans Lindbergs samt Sýsslumanns Gudmundar Runólfssonar upplesenn Not. Lit. F. Framlagde hann sídann eina Logþinges-Rettar Stefnu under Hende og Signete Hr. Logmannsens B. Marcússonar af 9. Júnii sídstl. hvar med innstefnder eru efter Hr. Landsfógetans Begiering, Sýsslumadurenn Gudmundur Runólfsson og Compagniets Fuldmægtig Sr. Hans Lindberg upplesenn og uppáskrifud Not. Lit. G. Aftur eitt Document sem innehelldur Begiering Landsfógetans til Sýsslumannsens Gudmundar Runólfssonar áhrærande Original-Stefnu fyrer Hierads-Rette í þessare Sok med uppáteiknudu Sýsslumannsens Ansvare, hvortveggia af 10. Júnii sídstl. upplesed Sub Lit. H. Sýsslumadur Jón Jacobsson uppástendur, ad Sýsslumadur Gudmundur Runólfsson framlegge í Rettenn Original-Stefnu Landsfógetans til Hierads-Rettar efter ádur ansærdre skriflegre Begiering, hvad Sýsslumadurenn Runólfsson giorde, med Skilmála ad Originalen honum aftur levereft. Vidara uppástendur Sýsslumadurenn Jón Jacobsson, ad Kaupmadur Christensen hafe med sin Paateigning á Original-Stefnuna, hvar heilu Sokenne er innstefnt, agnosceret so vel þá fyrstu

Stefnu-

Stefnu sem þá síðstu fyrer løglega byrta, og þþí kunne eingenn Exception á móte þeirre fyrstu Stefnu nú hafa Stad, þar Søkenn sie ein og hin sama; Enn nú producerade hañ Innlegg af 15. Hujus under Landfógetans Skúla Magnússonar Nafne, hvar med hann vill demonstrera Sakarennar áſigkomulag og uppástendur ad Sýsslumadurenn Gudmundur Runólfsson betale til Kongsens og sín 60. Lód Silfurs med vídara sem þad med sier ber uppleſed og Not. Lit. J. Annad Innlegg framlagde Sýsslumadur Jacobsson af 15. Hujus under Hr. Landfógetans Nafne, sem er, hans Irettesættelse móte Sr. Lindberg, uppleſed Not. Lit. K. Sýsslumadur Gudmundur framlagde Innlegg af 12. Hujus hvar med hann vill forsvara sínar adgiørder í Søkenne og uppástendur Satisfaction af Landfógetanum med vídara sem þad medfærer uppleſed Not. Lit. L. Sr. Lindberg declarerar at hverken Hand- eller Kiøbmand Christensen i hans Fraværelse har modtaget fleere Copier den Dag ↄ: den 31 Martii end som for Retten af hannem er bleven fremlagt, og paastaaer han at Landfogden skal bevise at have meddeelt ham andre Copier, end som den der i Retten er bleven fremlagt den 13. April sidstleden og saaledes refererer sig til det forrige og indlader Sagen til Doms. Hier uppá repliqverar Sýsslumadur Jón Jacobsson, ad Sr. Lindbergs Paateigning og Sr. Christensens Dto. á Original-Stefnuna sine ad þeir hafe báder fullkomnar Copier medteked, annars være þar um umgeted í Paateigningen. Sýsslumadur Gudmundur refererar sig til síns Innleggs. Søgdust so Partanner ei hafa vídara ad framfæra under endelegann Dóm.

## Num. XXVII.

Sama E. M. mætte Sýsslumadur Jón Jacobsson og framlagde Hr. Amtmanns Stepháns sonar Ordre af 13. Hujus til ad gánga í Rett vegna Klausturhalldarans Lauritzar Schewings í einne Jardabyggingar Søk úr Nordur Sýsslu, sem uppleſnar Not. Lit. A. Vídar framleggur hann eina Løgþings-Rettar-Stefnu af Dato 12. Novembr. sídstlidna áhrærande eina Søk út af Byggingu Hiáleigunnar Høskulldsneſſ í Nordur-Sýsslu, hvar um sá adjungerade Sýsslumann Wigfús Jónsson hefur dæmt í Hierade og hanns Dómur nú innstefndur samt siálfur Sýsslumadurenn til hanns ad svara, samt Þórsteinn Eriksson á Asmundastødum, báder til ad heyra tiltal og lída Løgþinges Dóm, so sem sama Stefna vídar medfærer upplesenn Not. Lit. B. uppá Sýsslumannsens Wigfúsar Jónssonar vegna mæter efter Begieríng Sýsslumadurenn Jón Jónsson og framvísar þar til skriflega Fullmagt, var so efterspurt og upphrópad hvørt nockur mætte hier uppá Þórsteins Erikssonar vegna? og innfann sig eingenn til

sama

